seinna prestur í Kálfholti (d. 1863), rekkjunautur Páls í skóla" (dr. J. H.).*) — 23. l., „biskupnum", Steingrími Jónssyni í Laugarnesi. — 2. l. a. n., „supremo", „supremus", efstur (í bekknum). — Bls. 5, 12. l., „óselt", líklega af (skóla-)bókum, sem Jónas hefir átt að selja fyrir T. S. — 14. l., „Ögmundi", Sigurðssyni, er var í Höfn við nám; dó prestur á Tjörn 1845. — 15. l., „Sigfúsi", Skúlasyni („Schulsen), síðar sýslumaður, d. 1862; sbr. bls. 89, m. aths. — 18. l., „Högni", Einarsson frá Skógum; las lög í Höfn og dó þar. — 21. l., „Jóni Sigurðssyni", frá Bægisá, er getið var í aths. við 10. l. á 4. bls.

*Bls. 5—9.* — TIL TÓMASAR SÆMUNDSSONAR. *1. Marz 1829.* — Sbr. aths. við næsta bréf á undan. Skrifað með fljótaskrift á 2 kvartarkir. Prentað áður, ásamt skýringum, í Skírni, 79., 284—288; er hér tekið tillit til þeirra. — Bls. 5, 3.—2. l. a. n., „tilskrif" o. s. frv., sjá Bréf T. S., bls. 37—49. — Bls. 6, 15. l., „Jóns á Böggvisstöðum", Sigurðssonar, dannebrogsmanns, er talinn „var auðmaður mestur norðanlands á þeim tíma". Þegar hann dó, árið 1846, hljóp dánarbú hans 19,800 rd. — 4. l. a. n., „Ulsrup", sbr. I. b., bls. 245—246, m. aths., og V. b., bls. XLIV o. frv. — 2.—1. l. a. n., „kann ske komi ég" o. s. frv., sbr. V. b., bls. LVIII o. frv. Jónas sigldi sumarið 1832; var í Reykjavík, hjá Ulstrup þangað til. En þeir vinirnir fundust ekki í Höfn fyr en vorið 1834, er Tómas kom þangað aftur úr ferðum sínum suður um lönd, sbr. V. b., bls. LXIV—LXV og víðar. — Bls. 7, 1. l., „Hafurs-grið", sbr. einkum Ísl. sögur II., Kh. 1874, bls. 379—382 og 484—493, e. fr. Grágás og Grettis-sögu (Halle 1900, bls. 255—257) og Heiðarvíga-sögu" (Kh. 1904, bls. 98—100). — 5. l., „veikindi"; taugaveiki, sem margir pilta fengu og einn þeirra dó úr, Bjarni Guðmundsson frá Ási í Vatnsdal. Sbr. e. fr. Endurminn. Páls Melst., bls. 38—39. — 7. l., „S. Brynjólfsson og Daníels", þ. e. Sigurðar Brynjólfssonar Sivertsens og Daníels frá Litla-Dal, Jónssonar, prests á Auðkúlu. Sigurður varð prestur á Útskálum og Daníel í Ögurþingum; hann drukknaði í Ísafjarðardjúpi 1866. Sbr. V. b., bls. XLII—XLIII. — 8. l., „dimittendus", svo var sá kallaður, sem átti að taka burtfararpróf. — 10. l., „jöfurs", Friðriks 6.; afmælisdagur hans var raunar 28. Jan. Hannes Johnsen, sonur Steingríms biskups, skrifaði Páli Pálssyni stúdent 7. s. m. um þessa skólahátíð þannig: „Hátíðin á

*) Í hr. nr. 2143, 8vo, í Lbs. er „Gleðispilið Álfur", skrifað í skóla af Ögm. Sigurðssyni, síðar presti á Tjörn; persónurnar í því eru hinar sömu og í sögunni í I. b., bls. 264—265, en gangurinn í leiknum er allur annar en í henni. — Cand. Lárus Sigurbjörnsson hefir bent útgefanda á þetta hr.

Bessastöðum gekk rösklega í vetur, því veðrið bagaði nú öngvan fautorem eða amicum; lector hélt latínu-ræðu og Konráð skólapiltur aðra, dá-fallegar; þó sýndist mér þess síðara fallegri; svo voru latínu-vers sungin; þar á eftir var þessum Konráði af föður mínum afhent sem præmium industriæ Passows Lexicon, græsk-tydsk, og Jónasi Hallgrímssyni Schulatlas í sama tilgangi. — Að þessu enduðu komu menn með Gammel-vin og var drukkið upp heilanker, til að biðja með því fyrir kongi og öðrum góðum mönnum, „svo allir gjörðust glaðir“, stendur þar“. — 12. l., „biskup“, Steingrímur Jónsson. — 17. l., „præmium industriæ“, verðlaun fyrir iðni og ástundun. — 19. l., „Sigurð vorn Tómasson“, frá Garpsdal; varð prestur í Grímsey og dó þar 1867. — 21.—22. l., „problem“, viðfangsefni. — 25. l., „undenfor“, les udenfor. — 30. l., „stiftið“, stiftsyfirvöldin, sem höfðu á hendi yfirstjórn skólans. — Bls. 8, 2. l., „Jóni Sigurðssyni“, frá Bægisá; hann var nú á Kirkjubæ(jarklaustri), giftur frænku sinni, Guðnýju Jónsdóttur. — 5. l., „dóttur“, Guðnýju; hún fæddist 23. Okt. 1828. — 7. l., „Ólafur vor Pálsson“ (rektors Hjálmarssonar); bjó á Miðhúsum á Reykjanesi. Varð prestur í Otrardal 1833. Drukknaði í Arnarfirði 22. Marz 1849. — 8. l., „harðgiftur“, Sigríði Ingimundardóttur (13. Sept. 1827); hún var föðursystir Gests skálds Pálssonar. — 15. l., „Lárus“, Sigurðsson frá Geitareyjum, sbr. I. b., bls. 46, m. aths. — 20.—21. l., „paidagogus“, uppeldisfræðingur; Lárus var þá heimiliskennari hjá Sigurði kaupmanni Bjarnasyni Sivertsen. Sbr. e. fr. Endurm. Páls Melst., bls. 50—51. — 25. l., „annað“ o. s. frv.; það mun nú týnt. — 28. l., „recommendera“, fela á hendur. — 32. l., „Scheving“, dr. Hallgrímur Sch., sbr. V. b., bls. XXX—XXXI. — 33. l., „Geir“, Bachmann, sbr. 3. bls., 16. l., m. aths. — 34. l., „conjecturu“, tilgátu. — Bls. 8—9; viðvíkjandi þessu, sem Jónas ritar hér um Hallgr. Scheving og Tómas sbr. Bréf T. S., bls. 43—44, bréf til Jónasar, frá 1. Okt. 1828. — 15. l. (á bls. 9), „spillt Gísla“, þ. e. Gísla Ísleifssyni, sbr. kvæðið „Ad amicum“, I. b., bls. 11—18, m. aths., og brotið af „Iðrunarvísum“, I. b., bls. 187, m. aths. Þeir Jónas og Gísli munu hafa haldið vináttu sinni, hvor til annars, ávallt, að lokinni samverunni í skóla; þeir voru sambýlismenn á Garði; fyrst eftir að Jónas kom til Hafnar, og síðar mun Jónas hafa heimsótt Gísla á Selalæk 1837 og 1842. Af bréfi til Páls Melsteds yngra, II. b., bls. 188, má sjá að Jónas hafi sennilega skrifað Gísla 1844, sumarið áður en hann dó; hafa þeir að líkindum oft skrifazt á, en þau bréf munu nú öll glötuð. — Neðan við þetta bréf til T. S. hefir Jónas sett: „(fortsættes)“. Sbr. bls. 8, 25.—31. l. — Sbr. e. fr. Bréf T. S., bls. 49–53.

*Bls. 10—11.* — TIL MAGNÚSAR EIRÍKSSONAR. *14. Marz 1832.* — Ehr. í hrs. Lbs., nr. 303, fol., skrifað á samanbrotna hálförk. Utanáskrift: „S. T. Hr. studiosus M. Eiriksen a/ Kiöbenhavn“. Bréfið er með fljótaskrift. — Þeir Magnús og Jónas voru bekkjarbræður og útskrifuðust saman, og voru síðan saman í Rv. 2 ár, en Magnús sigldi til Hafnar 1831, ári fyr en Jónas; síðan voru þeir saman í Höfn. Um Magnús sjá e. fr. I. b., bls. 154, m. aths. — Bls. 10, 4. l., „gamli Sveinn“, seglskip, í förum milli Íslands og Danmerkur. — 7.—8. l., „Jóhann Halldórsson“, sonur H. prófasts Ámundasonar á Melstað; útskrifaðist 1831; las síðar lög við háskólann í Höfn og dó þar 1844 (sbr. Skýrslur og reikn. Bmf. 1843, bls. VIII). — Þennan vetur, 1831—1832, mun Jónas oft hafa verið hjá þeim Knudsens-mæðgum í Landakoti, sbr. aths. við kvæðið „Serenade“ í I. b., bls. 243—245, og lýtur miðkafli bréfsins að því. Sbr. e. fr. V. b., bls. LII—LV. — 12.—15. l., „Ball“, o. s. frv., nefnilega í Klúbbfélaginu; Jónas gekk í það 11. Okt. 1830. — 21.—22. l., „conversera“, tala við. — 23. l., „Hjaltested og Fischer“, Ólafur Einarsson Hjaltested, skólakennari í Rv., og Hermann Fischer, þá unglingur (f. 1. Sept. 1815); var hér síðar verzlunarstjóri og kaupmaður; d. 10. Ág. 1850. Ólafur var f. 1801 og útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1825. Varð síðar prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd og dó þar 1848. Sb. Endurm. P. Melst., bls. 50, og Prestatal Sv. N., bls. 82, og Sögu Rv., I. b., bls. 125 og 252. — Georg, bróðir hans, átti frændkonu Jónasar, Guðríði Magnúsdóttur, prests í Steinnesi. — 24. l., „Ebbesens“, C. W., kaupmanns; um hann sjá m. a. Endurm. P. Melst., bls. 24. — 27. l., „Chr. Möller“, Christian Ludvig M., verzlunarmaður og síðast gestgjafi í Rv., sbr. Sögu Rv., I., 168 og víðar; hann var afi Jakobs alþm. Möllers og Arents Claessens aðalkonsúls.

*Bls. 11—12.* — TIL DEN KONGELIGE DIREKTION FOR FONDET AD USUS PUBLICOS. *5. Nov. 1835.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn (F. a. u. p. Journal 10, nr. 430). Eru með því þar uppskriftir af prófsvottorðum Jónasar og meðmælaskjal frá kennurum hans, J. Reinhardt og G. Forchhammer, sbr. V. b., bls. LXIX—LXX og fskj. 4—7. — Þessi sjóður, F. a. u. p. (til almennra þarfa), var stofnaður af Friðriki 5. 1765, en upphafinn aftur 1842. Sbr. að öðru leyti umsóknina á bls. 14 (ásamt tilheyrandi skjölum, vottorðum, tillögu og úrskurði í ríkisskjalasafninu), og V. b., bls. LXXIII.

*Bls. 12—14.* — TIL KONRÁÐS GÍSLASONAR. *15. Jan. 1836.* — Ehr. í K. G. 31 a, skrifað annars vegar á arkarfjórðung; hins vegar utanáskriftin: „Til S. T. Herr studios. juris

C. G. Conrahd, a la Christianshavn. Nr. 95, hos Kongen. — Hermed: Havrefrö! Fuglfrö! — Recommenderes Hr. Sören Kattrup, den Gud ledsage!" — Konráð flutti af Garði (Regensen) sumarið áður. Segir í ævisögu hans í Tímar. Bmf., XII., 64, að hann hafi síðan um hríð búið í Borchs Kollegium. Eftir utanáskrift Jónasar á þessu gamanbréfi er svo að sjá sem Konráð hafi átt heima úti á Kristjánshöfn. — Sören Kattrup var sendiboði Bókmenntafélagsins (fyrir 20 dala þóknun á ári) og var oft í snatti fyrir íslenzka stúdenta í Höfn, Fjölnismenn o. fl. — Fyrsta setningin er á ítölsku, Feneyjamállyzku, og þýðir: „Glingraðu við mig, góði; ég er lagleg!" Sennilega haft eftir götustelpu í Feneyjum, og mætti gizka á, hvaðan Jónas hafi fengið það.*) — „Kvist" (neðsta l. á 12. bls.), þ. e. J. D. Kvist prentari; „manuskriftið" (handritið), sem hann hefir átt að fá frá Jónasi, hefir verið af greininni „Af eðlisháttum fiskanna", sem kom í Fjölni 1836, II., 3—14; sbr. V. b., 81—93. — Bls. 13, 1. l.; óvíst um, hver „Mutter Heide" („Mútter Heíðe") hefir verið, — og hvað átt er við með Lyhs (16. l.). — 3. l. er úr gömlu Krummakvæði, sjá Ísl. þjóðlög, Kh. 1906—9, bls. 601. — 8. l., Jón asen (þ. e. asni), orðaleikur til að skopast að nafninu Jonas(s)en. Ef til vill á Jónas hér við vin sinn, Þórð Jónasson (Jonassen); þeir höfðu verið saman í Höfn í 3 ár, en Þórður var nú farinn heim. Síðar voru þeir saman í Rv. og eru hér aftar bréf frá Jónasi til Þórðar, bls. 139—40 og 151—53 og 198—99. — 11. l., „Brynjólfur", Pétursson. — „Jörgin og Óli", o. s. frv.; líklega átt við veitingastað. — „Eitt lítið sjónarspil" hefir verið prentað áður í 1.—3. útg. af ljóðmælum Jónasar, undir fyrirsögninni „Lítill leikur". Yfirskrift Jónasar er skop, eins og allt „sjónarspilið". Í 2. (og 3.) útg. er haft eftir Páli Melsted, að hann og Jónas hafi búið „þessar vísur til að gamni sínu morgun einn í rúminu". Ekki er svo að sjá, að Páll hafi átt nokkurn þátt í þessu; mun það misminni hans. — Grímur græðari eða sáragræðari var Magnússon. Hann átti nú heima á Munkaþverá hjá Ara Sæmundssyni umboðsmanni og Sigríði dóttur sinni, konu hans. Hann hafði lækningaleyfi (var „licentiatus chirurgiæ) og hafði fengizt allmikið við lækningar. Í 2. (og 3.) útg. er sagt í aths. við þessar vísur, að hann hafi eitt sinn höggvið tá af stúlku með sporjárni. Grímur hafði áður verið bóndi á Espihóli um hríð. Nú var hann orðinn hálf-áttræður, er Jónas orti þetta, og dó hálfum mánuði síðar, 30. Jan. Sbr. P. Zoph., Ættir Skagfirðinga, Rv. 1914, bls. 70, Ann. 19. aldar, II., 81, og e. fr. Ljóðabók Jóns Þorlákssonar, II.,

---

*) Skýrt af dr. Sigfúsi Blöndal.

622. — Bls. 14. Kveðjan, á latínu, þýðir: „Þinn allt til dauðans“. — „Mr. Sjonne“, skopmynd af nafni Jónasar, eins og líka utanáskriftin er í skopi, — vitanlega að þeim, er afbökuðu nöfn sín af hégómagirnd, eins og sumir gerðu þá, og gert er raunar enn.

*Bls. 14.* — TIL DEN KONGELIGE DIREKTION FOR FONDET AD USUS PUBLICOS. *6. Juli 1836.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn; sbr. bréfið frá 5. Nóv. 1835 og aths. við það. — Vottorðin, sem fylgja með, eru svo-látandi:

„At Hr. studiosus juris J. Hallgrimsen har i afvigte Vintersemester hørt mine offentlige Forelæsninger over de nordiske Fiske, og som sædvanligt vist levende Interesse ogsaa for denne Del af Zoologien, bevidnes. — D. 30. April 1836. *J. Reinhardt*“. – „Herr stud. juris Jonas Hallgrimson har i Vinteren $18^{35}/_{36}$ hørt mine Forelæsninger over Danmarks Geognosi med megen Flid og Opmærksomhed, indtil han formedelst Sygdom var nødsaget til at opgive dem, hvilket jeg hermed bevidner med Fornøjelse. Den 5. Juli 1836. *G. Frochhammer*“. — Umsókn Jónasar var nú tekin til greina. Álit sjóðsstjórnarinnar er dags. 30. s. m. Samkvæmt því úrskurðaði konungur styrkveiting 6. Ág., og 26. s. m. tilkynnti sjóðsstjórnin Jónasi hana. Sbr. V. b., bls. LXXIII. — Í 1. l. umsóknarinnar stendur í ehr. (af misminni) „Dec.“ fyrir „Nov.“

*Bls. 15.* — TIL PÁLS MELSTEDS SÝSLUMANNS. *29. Júlímán. 1837.* — Ehr. í hrs. Lbs. 147, fol., á fremstu bls. af stórri hvartörk; utanáskrift á 4. bls.: „Velbornum Herra Kammerráði P: Melsted, sýslumanni í Árness-sýslu, á Hjálmholti“. — Páll Melsted varð síðar amtmaður. Hann var faðir Páls sagnfræðings (P. M. yngra), er var sambýlismaður Jónasar á Garði. — 9. l. Bjarni í Laugardælum, hreppstjóri og meðhjálpari, var Símonarson. — 11. l. „Bónarskráin til konungs“, sjá um hana í Fjölni, IV., 45—46, og ævis. J. Sig., II., 71 o. áfr. — 15. l. „Séra Árni“, í Görðum, Helgason. — 17. l. „Lector“, Jón Jónsson í Lambhúsum. Hann skrifaði aldrei undir bænarskrána. — Sbr. Bréf T. S., bls. 239—40.

*Bls. 16—18.* — TIL KONRÁÐS GÍSLASONAR. *8. Ágústmán. 1837.* — Ehr. í K. G. 31 a., skrifað á 2 kvartarkir. Sérstakt umslag, með akkeri í innsiglinu; Konráð hefir skrifað á það: „Borið mér í hendur 12. d. ág.-mán. 1837“. Konráð var í Kh., og hefir bréfið eftir dagsetningunni verið ótrúlega stuttan tíma á leiðinni. — „Helga í Suðurbæ“ var dóttir Ólafs Jónssonar, er þar bjó; sbr. Sögu Rv., I., 178 og 274; fædd um 1802. — 7. l., „tilskrifið“, gamanbréf, að sumu leyti á þýzku, dags. 14. Júní; er í K. G. 31 a meðal fleiri bréfa frá Konráði (o. fl.) til Jónasar.

— 9. l., „búinn að týna henni niður“; hann hafði verið 5 ár erlendis. — 11.—12. l., „stiftamtmanni“, Carl Emil Bardenfleth, sem þá var nýlega (í Júní) kominn í stað L. A. Kriegers, sem fór utan þetta sumar, — kom til Álaborgar seint í Júní;*) sbr. Sunnanp. 1838, bls. 118. — 12. l., „séra Tuma“, Tómas Sæmundsson. — 14. l., „biskup“, Steingrím Jónsson; „Árni“, Helgason, prófastur í Görðum; „Lambhúsa-Jón“, Jón lektor Jónsson. — 24. l., „rita þér“, sbr. Bréf T. S., bls. 214—25. — 29. l., „Snapir og gapir o. s. frv.“, sbr. (62.) er. í Hávamálum: „Snapir ok gnapir, — es til sævar kemr, — örn á aldinn mar. — Svá er maðr, er með mörgum kemr — ok á formælendr fáa“. — Bls. 17, 1. l., „Br.“, eflaust Brynjólfur Pétursson; hann tók próf í lögfræði um vorið og mun hafa farið heim (og þá norður til Víðivalla), snöggva ferð, þetta sumar. Sbr. Bréf T. S., bls. 216. — Þessi kafli er um fjárþröng til útgáfu Fjölnis. — 6. l., „A propos“, vel á minnzt. — 7. l., „bænarskránni“, sbr. næsta bréf á undan, m. aths. — 24. l., „séra Þorláks í Móum“, Loftssonar; Ólafur, sem var trúlofaður dóttur hans, er Ólafur Einarsson Jónssonar (Johnsen), síðar prófastur á Stað á Reykjanesi; sbr. I. b., bls. 283 og 285, m. aths. Stúlkan hét Sigríður, og giftust þau þetta sama ár. Hún var þá 21 árs. Orðatiltæki Jónasar um hana eru tekin úr bréfi Konráðs sjálfs. — 25. l., „Oddgeir“ er O. Stephensen, síðar forstöðumaður hinnar íslenzku stjórnardeildar í Höfn. Hann var frá Esjubergi, næsta bæ við Móa, og var þá í Höfn við laganám, er bréfið var skrifað. — 33. l., „Stefán í Selkoti“, undir Eyjafjöllum, var stúdent. Sbr. Fjölni III., I., 43. Hann var Ólafsson, gullsmiðs, í Selkoti. — Bls. (17—)18, 1. l., „tveir tígulkongarnir“ o. s. frv.; það eiga menn á hættu, að komi fyrir, að sögn, ef menn spila í kirkju eða á aðfangadagskvöld. — 4. l., „Branda“ gæti, ef til vill, verið smástúlka í Kálfholti, dóttir séra Benedikts Eiríkssonar, aðstoðarprests þar þá. Móðir hennar, kona séra Benedikts, var Málmfríður Brynjólfsdóttir, prests þar, Guðmundssonar. Bræður Málmfríðar, konu Benedikts prests, voru þeir Guðmundur og Benedikt, báðir í Kálfholti, en ekki er líklegt, að þeir Jónas og Konráð hafi verið þeim kunnugir. Séra Benedikt var skólabróðir þeirra og kann að hafa verið búinn að skrifa öðrum hvorum þeirra um litlu dóttur sína og þá nefnt hana Bröndu, en Málmfríður hét hún. — Séra Benedikt var móðurbróðir þeirra Eiríks meistara Magnússonar og Eiríks Garð-prófasts Jónssonar. Hann dó 1903, 96½

* Í V. b., bls. LXXX, 24. l., stendur óvart „Krieger“ fyrir Bardenfleth.

árs. — 6. l., „Marmier“, Xavier Marmier, rithöfundurinn franski (f. 1809, d. 1892); var með Paul Gaimard hér 1836 og samdi sögu Íslands og bókmenntasögu; ferðaðist um Norðurlönd næstu ár. Konráð getur um ferð hans í bréfi sínu. — „Litli Xavier Svend etc.“ (8. l.), drengur, sem Málfríður Sveinsdóttir, þjónustustúlka á „Klúbbnum“, átti 21. Apríl s. á. og kvað X. M. vera föður að; drengurinn hét Sveinn Xavier. — Mynd er af Málfríði í „Atlas“ Gaimards, I., 10. Hún var dóttir Sveins Ólafssonar, er var síðasti ábúandinn á Arnarhóli í Reykjavík, og „þótti kvenna fríðust“. Sbr. Rvík. 14 v., bls. 14. — 9. l., „Reiersen“, Christian Reiersen, ritskoðari (censor) í Höfn (1834—50; d. 1876); fremur frjálslyndur. — 15. l., „Lund“ o. s. frv., Morten Frederik L.; hann var þá nýlega (6. Maí) orðinn sýslumaður í Mýrasýslu, aldanskur maður. Sbr. Sýslm.-æfir, III., bls. 372—73. — 18.—19. l., „Guðmundur minn“; Jónas á við Konráð; hann hafði ávarpað Jónas á sama hátt í bréfi sínu.

*Bls. 18—19.* — TIL DEN KONGELIGE DIREKTION FOR FONDEN AD USUS PUBLICOS. *22. Marz 1838.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn, sbr. bréfin frá 5. Nóv. 1835 og 6. Júlí 1836. — Jónas hefir fengið ósk sína uppfyllta; er skrifað á bréfið: „Anviist 37 Rd. 48 Sk. Sölv d. 31. Marts 1838“.

*Bls. 19.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *10. Jan. 1839.* — Ehr. meðal annara bréfa Jónasar (og annara) til Finns geymt í ríkisskjalasafninu í Höfn. Veizlan fyrir Paul Gaimard var haldin 16. s. m., sbr. I. b., bls. 57—59, m. aths., og V. b., bls. LXXXVII —LXXXVIII. — Ókunnugt er að öðru leyti um þetta latínska kvæði, en ekki mun það hafa verið prentað, né notað í samsætinu.

*Bls. 20—22.* — TIL DET HØJKONGELIGE RENTEKAMMER. *24. April 1839.* — Ehr. í Þjóðskjalasafninu, fengið þangað úr ríkisskjalasafninu í Höfn (var þar merkt Isl. J. 19, Nr. 454), en eldra frumrit af þessu bréfi er í nr. 13, fol., í hrs. Bmf., frá því í Marz árið áður. Hefir Jónas ætlað að senda það þá og fara fram á ferðastyrk, en hætt við það. Sbr. V. b., bls. LXXXII, og fylgiskj. 9. — Höfundur ritgerðar þeirrar um Jónas, sem er framan-við 2. útg. ljóðmæla hans, hefir séð þetta eldra frumrit, en ekki vitað, að það var aldrei sent; hefir þetta valdið nokkrum villum í ritgerðinni, sjá bls. XXI o. frv. — Sbr. e. fr. næsta bréf og V. b., bls. XC—XCII, og LXXXV—LXXXVI.

*Bls. 22.* — TIL DET HØJKONGELIGE RENTEKAMMER. *17. Maí 1839.* — Frumr. í ríkisskjalasafninu (Isl. Journ. 19, 503) áður, nú í Þjóðskjalasafninu. Sbr. næsta bréf á undan og aths. við það. — Svo er að sjá af því, sem skrifað hefir verið í stjórnarskrifstofunni, að tilkynningarnar um greiðslu þeirra

100 + 100 dala, er veittir voru, hafi verið gefnar út eða dagsettar 18. og 25. Maí, en af dagsetningu þessa bréfs er augljóst, að Jónas hefir verið búinn að fá tilkynning um fyrri veitinguna fyrir 18. Maí, þar sem það er skrifað 17. Maí; og sennilegast er, að hann hafi verið búinn að fá greidda síðari upphæðina fyrir 25. Maí, því að 24. Maí fór hann af stað frá Höfn, sbr. III. b., bls. 62. En það er þó ekki fullvíst, að Jónasi hafi verið svarað upp á fyrra bréfið 15. Maí og veitt síðari upphæðin 18. s. m., svo sem gefið er í skyn í V. b., bls. XCII.

*Bls. 23—24.* — TIL KONRÁÐS GÍSLASONAR. *11. Júlí 1839.* — Ehr. í K. G. 31 a, á 3 síðum á stórri kvartörk, en utanáskrift á 4. síðu, og hefir Konráð skrifað þar: „Borið mér í h. (þ. e. hendur) 9. ágústs“. — Kafli úr bréfinu er prentaður í Skírni, 80. árg., bls. 359. — Bls. 23, 7.—8. l., „Náná hans Fúsa“; óvíst, við hverja er átt. — 11. l., „[fara]“ virðist vanta í ehr. — 11.—12. l., „þeim grænlenzka“, þ. e. hafísnum. — 14. l.; séra Kristján á Bægisá var föðurbróðir Jónasar, Þorsteinsson, prests, Hallgrímssonar. Hann varð síðar prestur á Völlum, 1846, eftir Stefán bróður sinn, föður Skafta Tímoteusar, og dó þar áttræður 1859. — Jónas hefir gert ráð fyrir, að hann hefði lítið gaman af að heyra spóann vella um túnasláttinn (sbr. 12.—15. l.). — 21. l., „náttúruskoðurunum“, þeim J. C. Schythe og Jap. Steenstrup, sem Jónas átti að fylgjast með; en þeir komust aldrei til Norðurlands þetta sumar; sbr. V. b., bls. XCI—XCIII. — Um ferðir Jónasar sjá V. b., bls. XCIV—XCVII, og ferðaskýrslur hans, sem vitnað er í þar. E. fr. Landfrs. Ísl., IV. b., bls. 7 og frv., og ferð þeirra Schythe og Steenstrups s. st., bls. 23 og frv. — 22. l., „arnarbelg og hlýra“, sbr. III. b., bls. 78—80. — 24. l., „kolin“, sbr. III. b., bls. 69—76. — 30. l., „Jóns míns Péturss.“, síðar háyfirdómara; hann var vinur Jónasar sem þeir bræður allir, Brynjólfur (sbr. bls. 13) og Pétur, síðar biskup. — Bls. 24, 2. l., „vogmeri“, sbr. III. b., bls. 83. — 6.—7. l., „kvenmann á 18. árinu“ o. s. frv. Jónas ætlaði til Reykjahlíðar; verið getur, að prestsdóttirin ein þaðan, Hólmfríður, hafi verið á Akureyri, en ætlað nú heim, og komið til orða, að hún yrði Jónasi samferða. Sbr. e. fr. V. b., bls. XCV. — 11. l., „Herthu“, herskipi dönsku, sbr. III. b., bls. 78. — 12. l., „Kr. mínum, og Br. og Páli“, þ. e. Kristjáni Kristjánssyni, síðar amtmanni, Brynjólfi Péturssyni og Páli Melsted yngra, sambýlismanni Jónasar á Garði, síðar málfærslumanni og sagnfræðingi. — 13. l., „Thorsen“, Peder Groth Thorsen, bókavörður við háskólabókasafnið í Höfn, rúnafræðingur; f 1811; d. 1883. — 14. l., „Völvuleiði“ er sennilega forn dys; þar er ólæsilegur rúnasteinn í brotum; sjá skýrslu

Jónasar í næsta bréfi og III. b., bls. 72—73; sbr. e. fr. Kålund, Isl. Beskr., II., bls. 117, og Isl. fortidslevn., bls. 63—64 (119—20). — 15. l., „Möngu litlu“, þ. e. Margrét, bróðurdóttir Odds lyfsala Thorarensen, dóttir Stefáns Th. á Espihóli; hún var þá á 14. árinu. — 16. l., „silfurhólki“ o. s. frv., sbr. bls. 26. — 20.—21. l. o. frv., „Konráð minn á Látrum“ o. s. frv. Konráð var bóndi í Grenivík; hann var Jóhannesson. Jón bóndi á Látrum í Grýtubakkahreppi var Jónsson. Konráð var ekki vinnumaður hans; vinnumaður Jóns hét Stefán og var Stefánsson. Stúlkan, sem Jónas á við, mun hafa verið Guðfinna, dóttir Jóns á Látrum, tæplega tvítug þá. — 24. l., „spekúlantinn“, þ. e. „Skipper og Spekulanthandler Hans Rømer af Rønne“; Jónas tók sér far með skipi hans, „Providence“, frá K.-höfn 24. Maí og kom loks til Akureyrar 18. Júní, sbr. dagbókina frá ferðinni, III. b., bls. 62 o. áfr. — 33. l. Kveðjan, á latínu, er síðustu orðin af þessari setningu: „In cujus rei testimonium subscriptum nomen respice, qværo (eða quæso), meum“, sem þýðir nokkurn veginn: „Gerðu svo vel að líta á nafn mitt undirritað til vitnis um það“.

*Bls. 25—27.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *22. Júlí 1839.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. — Um ferðalög Jónasar sbr. III. b., bls. 66—94. — 4. l., „5“; hann kom 18. Júlí að kvöldi til Reykjahlíðar. — 20. l., „félagsins“, þ. e. Bókmenntafélagsins, sem hafði beðið prestana um sóknalýsingar, sbr. V. b., bls. LXXXV o. áfr., IV. b., bls. 203—15 o. fl. — 25. l., „Völvuleiðið“ o. s. frv., sbr. næsta bréf á undan og eftir, m. aths. — Bls. 26, 3. l., „Kröyer“, Jörgen Jóhannesson Kröyer, sem þá var aðstoðarprestur í Miklagarði, sbr. III. b., bls. 77, m. aths. — 5.—6. l.; um rúnasteininn á Grenjaðarstað sjá III. b., bls. 86—88, m. aths.; e. fr. Kålund, Isl. Beskr., II., bls. 160 og 426. Áletrunin er skrifuð á sérstakt blað, sem fylgir bréfinu; er hún skrifuð með rúnum og með skrifletri fyrir neðan. Jónas réði áletranina rétt. Steinninn er enn á sama stað, og áletrunin skýr. — 8.—9. l.; af steininum á Ljósavatni voru til 4 brot (af 6) 1912. Um hann sjá bls. 29 og Kålund, Isl. fortidslevn., bls. 65 (121). — 31.—32. l., „kansellíráðs sál. Björnsens“, þ. e. Þórðar sýslum. Björnssonar í Garði, d. 1834. — Bls. 27, 10. l.; um þá Forchhammer, Steenstrup og Schythe sjá hér að framan, bls. 340 og 345, og hér fyrir aftan eru mörg bréf til Steenstrups; sömul. er þessara manna getið oftlega í ævisögu Jónasar í V. b., að síðustu á bls. CLXXXIV—V.

*Bls. 27—30.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *29. Sept. 1839.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. — Dagbókin frá ferðalaginu nær til 19. Júlí, sbr. III. b., bls. 62—94, og í yfirliti yfir

öll ferðalögin gerir Jónas nokkra grein fyrir Skagafjarðarferðinni og veikindum sínum eftir hana, sjá III. b., bls. 269.—73. — Bls. 28, 3. l., „Collin“, þ. e. Jonas C., fjármálaráðunautur í stjórninni, hinn ágætasti maður. — 6. l., „félagið“, Bókmenntafélagið. — 9. l., „Gunnlögsen“; Björn Gunnlaugsson var á þeim árum að fást við Íslands-uppdráttinn fyrir Bókmenntafélagið. — 12. l., „íslenzkt steinasafn“; hér mun Jónas fyrst geta þessa safns, sem hann nefnir síðar oft í bréfum sínum. Sjá e. fr. V. b., bls. CXXVII—VIII. — 14. l., „skólann“, þ. e. latínuskólann („lærða skólann“, „menntaskólann“); þangað fór safn Jónasar og varð upphafið að náttúrugripasafni skólans. — 28.—34. l. o. áfr., sbr. III. b., bls. 72—73; þar er mynd steinsins, sú sem Jónas kveðst senda; sbr. e. fr. Kålund, Isl. fortidslevn., bls. 63—64 (119—20). — Bls. 29, 3.—9. l., „Fjalirnar úr Flatatunguskálanum“, sjá Kålund, Isl. Beskr., II., 71, og fortidslevn., bls. 34 (90); e. fr. Árb. Fornlfél. 1888—92, bls. 80, og nr. 8891 í Þjóðminjasafninu, með lýsingu í skrá þess. — 17. l., „Amtmaður Bjarni“, Bj. Thorarensen á Möðruvöllum. — 19. l. o. frv., sbr. bls. 26, 8.—9. l., m. aths. Á rúnasteininum á Ljósavatni hefir staðið: *Hér hvíler Halldóra Þo(r)gils dótter.* — 23. l., „dr. sál. Brynjólfsen“, Gísli Brynjólfsson, prestur að Hólmum, dr. phil., — fyrir ritgerð um rúnir (Periculum runologicum, seu de runorum origine, propagatione et usu) 1823; d. 1827. — Bls. 30, 4.—5. l., „sjóðnum til almennra þarfa“, þ. e. Fonden ad usus publicos, sem Jónas hafði haft styrk úr (150 dali árl.) árin 1836—38, sbr. bls. 11—12, 14 og 18—19, e. fr. bls. 33 og 44. — 11. l., „félagsdeild vorri“, Hafnardeild Bókmenntafélagsins. — 16. l., „K. Kristjánssyni“, Kristjáni, síðar amtmanni; hann sótti um framhald styrksins fyrir Jónas, sbr. bls. 33 og 44 og V. b., bls. XCVIII—IX.

*Bls. 30—31.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *3. Okt. 1839.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. — „Kvæði“ það, sem Jónas á við á bls. 31, 5. l. o. áfr., er raunar 2 kvæði, þau sem eru í I. b., bls. 54—57 og 66—69. Bókmenntafélagið gaf þau út með „Alberts Thorvaldsens æfisögu“, Kh. 1841. Síðara kvæðið hefir Jónas sennilega ort skömmu áður en hann sendi bréfið, en hið fyrra árið áður í Höfn; sbr. aths. við bæði kvæðin og e. fr. V. b., bls. XCVI—VII.

*Bls. 31—33.* — TIL KONRÁÐS GÍSLASONAR. *4. Okt. 1839.* — Ehr. í K. G. 31 a, skrifað á sams konar pappír og bréfið frá 11. Júlí. — Konráð hefir skrifað á 4. bls., þar sem utanáskriftin er: „Borið m. í Kh. 29. nóv. 1839 (snemma morguns, með Þorst. frá Mívatni). K. G.“ Og e. fr.: „Skrivuð aptur 2

brjev með Kristjáni. (Vantar að tala við Gaimard)". — „Bruderlein", litli bróðir. — „Schneiderlein", klæðskerinn litli; Jónas á við sjálfan sig með þessu spaugsyrði. — 9. l. a. n., „Lauget", þ. e. Skræderlauget í Höfn. — Bókin, sem Jónas á við, er viðskiptabók klæðskera. Jónasi þótti jafnan leitt, er hann hafði ekki goldið skuldir sínar. — 6. l. a. n., „félagið", Bókmenntafélagið. — 4. l. a. n., „Herthu", herskipinu danska, sbr. bls. 24, m. aths., og III. b., bls. 78. — Bls. 32, 2. l., „Tuma", séra Tómas Sæmundsson, sem var það ár einn höfundur og kostnaðarmaður Fjölnis, V. árg. — 4. l., „Arnkels saga"; Jónas á við Hrafnkelssögu, sem Konráð (og P. G. Thorsen) gáfu þá út. — Um þá útg. sjá t. a. m. Tímar. Bókmfél., XII., bls. 64—65. — 6. l., „Gúman", þ. e. Jóh. Gudmann, kaupmaður á Akureyri, búsettur í Höfn, sonur Guðmundar, er nefndi sig Gudmann fyrstur, faðir Fredriks, sem Gudmanns Minde er kennt við. — 7.—8. l., „hann eineygði Fjölnir"; Jónas á við ritlinginn „Adfinning vid Eineygda Fjölnir" eftir Jón Hjaltalín. Er að sjá af þessu, að ritlingurinn, sem sjálfur var ætíð nefndur „Eineygði Fjölnir" manna á meðal, hafi verið orðinn kunnur á Norðurlandi áður en Fjölnir, V. árg., sjálfur, sem ritlingurinn er um, var kominn þangað frá Höfn. — Sbr. e. fr. bækling séra Tómasar: „Fjölnir og Eineigdi-Fjølnir, Videiar Klaustri, 1840"; sjá um hann Bréf Tóm. Sæm., bls. 263—64. — 9.—10. l., „kom af Nýjabæjarfjalli holdvotur" o. s. frv., sbr. bréfið til Finns Magnússonar 29. Sept. — 10. l., „Dýrleifarnar báðar", þ. e. Dýrleif dóttir Páls Halldórssonar á Jórunnarstöðum í Eyjafirði, og Dýrleif Kristjánsdóttir, uppeldisdóttir hans; báðar ungar stúlkur þá. Dýrleif Pálsdóttir giftist síðar Hallgrími Tómassyni, systursyni Jónasar, og var móðir séra Tómasar Hallgrímssonar á Völlum. — 13.—14. l., „Sibbern talar um", Fr. Chr. S. heimspekingur, prófessor við Hafnar-háskóla (d. 1872). Jónas vitnar, ef til vill, til rits hans, „Menneskets aandelige Natur og Væsen", Kh. 1819—28. — 16. l., „Jóhann sýslumaður" var Árnason; hann dó hálfu ári síðar; sjá um hann í I. b., bls. 219. — 18. l., „Sáka", líklega gæluorð fyrir *strák*. — 28. l., „bókina"; hann á líklega við þá bók, sem nú er nr. 6 í 8 bl. br. í hrs. Bmf. í Lbs.; hefir hann ritað í hana dagbók frá þessari ferð, allt til þess, að hann kom upp að brennisteinsnámunum, sbr. III. b., bls. 62—94. — Bls. 33, 3. l., „kreddu-þórunum", þ. e. kreditórunum; spaugsyrði íslenzkra Hafnarstúdenta.

*Bls. 33.* — TIL DIREKTIONEN FOR FONDET AD USUS PUBLICOS. *4. Okt. 1839.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. — Umboð til Kristjáns Kristjánssonar, síðar amtmanns. Kristján

sótti sjálfur um styrkinn undir nafni Jónasar 11. Febr. næsta ár, stílaði umsóknina til konungs. Sbr. e. fr. kvittunina hér fyrir aftan, dags. 13. Júní 1840, og V. b., bls. XCVIII—IX.

*Bls. 33—35.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *2. Marz 1840.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. — Bls. 33, 2. l. a. n., „virða", ehr. veita. — Bls. 34, 5. l., „inform.", information, kennsla. — 17. l., „Kolbjarnarhelli"; sá hellir er nú sagður ókunnur. — Jónas hefir líklega verið nýbúinn að fá skriflegar upplýsingar um hellinn, óvíst frá hverjum, en hann hefir skrifað þær upp á blað, sem hann hefir lagt í spjaldhylki á vasakveri sínu þetta sama ár. Sennilega væri hægt að finna þennan hellisskúta eftir þessum upplýsingum, að minnsta kosti staðinn, sem hér er sagt, að hann sé í. Sbr. þó e. fr. bréf Jónasar til Finns Magnússonar 9. Ág. 1841, bls. 88, 1.—2. l., hér fyrir aftan. — 19. l., „sögu Gests Bárðarsonar"; sagan er venjulega kennd við Bárð, en í niðurlagi hennar er hún þó kölluð „saga Bárðar Snæfells-áss ok Gests, sonar hans". Sá hluti sögunnar er og helzt um Gest, þar sem sagt er frá helli Kolbjarnar. Er hellirinn þar sagður vera „í Brattagili", „í Breiðdalsbotnum, en þat er í framanverðum Hrútafjarðardal, þar sem grynnir dalinn, vestr undir Sléttafelli". — 26. l., „Jón Sigurðsson", síðar forseti; hann átti að vinna úr sóknalýsingunum og semja lýsing Íslands með Jónasi. — Finnur svaraði þessu bréfi 1. Maí og segir þar m. a.: „Okkar góði Jón Sigurðsson hefur því miður legið sóttveikur frá nýári og er mjög vanséð um, hvenær honum batna muni", o. s. frv. — Bls. 35, 3.—4. l., „Indberetning minni", þ. e. skýrslunni um ferðirnar sumarið áður. — 4. l., „pr. Forchh.", þ. e. prófessor J. G. Forchhammer. — 6. l., „stipendíi mínu gamla", styrknum frá sjóðnum til almennra þarfa; sbr. umboðið frá 4. Okt. 1839, bls. 33, m. aths.

*Bls. 35—36.* — TIL BRYNJÓLFS PÉTURSSONAR OG KONRÁÐS GÍSLASONAR. *4. Marz 1840.* — Ehr. í K. G. 31 a, skrifað á smáörk. Á öftustu bls. er utanáskriftin: *Brynjólfur og Konráð.* — Þar hefir Konráð skrifað: „Borið mér í hh. 31. marz 1840 (Póstskj. kom 27.)". Og enn fr.: „Skrivað með Kristjáni (2 brjef)". — Bls. 35, 8.—9. l. a. n., „G. Hjálmars.", þ. e. Gísla Hjálmarssyni, lækni; Jónas hefir ætlað að skrifa honum. Gísli var þá við nám í Höfn, en hann kom raunar heim þetta vor. — 2.—3. l. a. n., „nefndarinnar", Íslandslýsingar-nefndar Bókmenntafélagsins. — 1. l. a. n., „Fjölni"; hann kom ekki út 1840—42; sbr. V. b., bls. CXLIII—IV. — Jónas og séra Tómas voru heima á Íslandi. — Bls. 36, 1. l., „Ursin", þ. e. G. F. K. Ursin, prófessor í stærðfræði við listaháskólann og „observator" í

Stjörnuturninum í Höfn, f. 1797, d. 1849. Jónas hefir um þetta leyti verið farið að langa til að koma tilgreindri bók út á íslenzku. Sbr. V. b., bls. XCIX. — 5. l., „K.“, Konráð. — 9. l. „Magnusen“, Finnur Magnússon prófessor. — 11. l., „með spjótamyndum“; skorur eru í steinana, sem eru vísir enn, eða einn að minnsta kosti, hjá réttinni, en ekki munu þær skorur eiga að vera spjótamyndir. — 14. l., „Tandraseli“, ehr. „Tindraseli“.

*Bls. 36—40.* — TIL DEILDAR HINS ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGS Í REYKJAVÍK. *9. Apr. 1840.* — Ehr. í hrs. Bmf. í Lbs., nr. 73, fol., skrifað á 3 smáarkir, sem eru lagðar hver innan í aðra í lítið hefti. Á 1. bls. efst er dagsetningin, og neðar er skrifað: „*Frumvarp um veðurbækur. — Til deildar hins íslenzka Bókmenntafélags í Reykjavík*“. — Þetta erindi var tekið fyrir á næsta deildarfundi, 6. Okt. næsta haust (bókað sama dag í dagbók deildarinnar). Fékk þetta mál hinar beztu undirtektir, sbr. V. b., bls. XCIX og CIX. — Bls. 37, 17. l., „veðurbók (Obs. Met.) herra Thorstensens landlæknis“, þ. e. Observationes Meteorologicæ a 1. Jan. 1823 ad 1. Aug. 1837 in Islandia facta a Thorstensenio medico. Hafniæ 1839.

*Bls. 40—41.* — TIL KONRÁÐS GÍSLASONAR. *31. Maí 1840.* — Ehr. í K. G. 31 a., skrifað á kvartörk; 3. bls. auð, á 4. utanáskrift; þar hefir Konráð einnig sett: „*Skrivað*“. — Bls. 40, 10.—11. l. a. n., „Hafðu blessaður skrifað mér til“; Konráð hafði skrifað Jónasi, sennilega 2 bréf, en þau eru nú glötuð. Enn skrifuðu þeir Brynjólfur honum 19. Maí, og eru þau bréf til bæði, en síðan ekkert annað frá þessu ári. Með bréfinu 19. Maí sendi Konráð Jónasi bók Ursins, og Brynjólfur skýrði frá, að töflurnar fengjust. Jónas hefir ekki verið búinn að fá þessi bréf frá 19. Maí, er hann skrifaði. — 7. l. a. n., „Skúla“, þ. e. Sk. Thorlacius, fulltrúi við skjalasafn innanríkisráðuneytisins í Höfn; d. 1870. Hann var sonur Theodors (Þórðar) sýslumanns Thorlaciusar. 3. l. a. n., „rekreera mig“, hressast. — „Dr. Hjaltalín“, Jón, síðar landlæknir. — 2. l. a. n., „skarifisera“, gera skinnsprettur (til lækninga). — 1. l. a. n., „skrifa á móti Tuma“, séra Tómasi Sæmundssyni, varnarriti hans fyrir Fjölni; það kom út þennan vetur og var skrifað á móti árás drs. Jóns Hjaltalíns, sbr. bréfið frá 4. Okt. 1839 og aths. við það.

*Bls. 41.* — TIL JAP. STEENSTRUPS. *Vorið 1840.* Ehr. var í eign Joh. Steenstrups, prófessors; ódagsett. Skrifað öðru megin á kvartörk; hinu megin utanáskrift: Hr. Geolog J. Steinstrup. — Fyrir neðan bréfið hefir Jónas skrifað: „Lexicon. — *lasinn* — upasselig. — *sóttarmeðal* — kan, hvis du vil — oversættes ved engelsk Salt. — *tefla við páfann* — spille Tavl (et

eller andet Brik-spil) med Paven; en Talemaade om en vis maturlig Forretning. — *afsaka* — undskylde. — *J. Hallgrímsson* — et Menneske med forvirret Portaaresystem".

*Bls. 41—42.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *13. Júní 1840.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. Bls. 42, 18. l., „bók yfir prestaköllin" o. s. frv.; hún er nú í nr. 4 í arkarbr. í hrs. Bmf. í Lbs.; það af henni, sem Jónas virðist eftir þessu hafa ritað þetta vor, eru þrír fremstu hlutar hennar, merktir A(I)—IV. Sbr. e. fr. V. b., bls. C—CI. — Bls. 43, 2. l., „styrk" o. s. frv., sbr. kvittanirnar hér á eftir, bls. 43—44.

*Bls. 43.* — TIL DET KGL. RENTEKAMMER. *13. Juni 1840.* Ehr. var í ríkisskjalasafninu í Höfn (Isl. J. 19, nr. 1406) með bréfi frá Finni Magnússyni, dags. 12. Júlí, en er nú í Þjóðskjalasafninu. — Finnur Magnússon sótti fyrir hönd Jónasar 30. Nóv. 1839 (Isl. J. 19, nr. 870) um 100 dala styrk, og var hann veittur 7. Des. 1839, en aðrir 100 dalir voru veittir 7. Apríl, með tilliti til ferðalags þetta sumar, 1840. Sbr. V. b., bls. XCVIII.

*Bls. 44.* — TIL DEN KGL. DIREKTION FOR FONDET AD USUS PUBLICOS. *13. Juni 1840.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn. Er þar með bréf frá Finni Magnússyni, dags. 12. Júlí. — Kristján Kristjánsson hafði sótt um styrkinn, eins og áður er getið, sbr. umboð Jónasar til hans, dags. 4. Okt. 1839, m. aths. Sjá e. fr. V. b., bls. XCVIII—IX.

*Bls. 44—45.* — TIL BRYNJÓLFS PÉTURSSONAR OG KONRÁÐS GÍSLASONAR. *15. Ág. 1840.* — Ehr. í K. G. 31 a, á örk í 4 bl. br.; 3. bls. auð, en utanáskrift á 4., til Brynjólfs. Konráð hefir skrifað þar á: „Skrivað". Klippt er úr fremra blaði og hafa þar farið úr fáein orð á undan setningunni: „Veit ekki, hvort ég kemst svo langt" (2.—3. l. á bls. 45). — Bls. 44, 9.—10. l. a. n., „veiða loftanda" o. s. frv.; sú var trú manna, að veiða mætti loftanda með því að liggja upp í loft úti með opinn munn og skæni yfir. Loftandinn vildi ofan í mann, en lenti þá í skæninu, og gæti maður þá vöðlað því um hann með vörunum og tungunni. Var háski að fá hann ofan í sig, en hafa mátti hann fyrir sagnaranda, ef tækist að veiða hann. Bezt var að ná í hann sem hæst uppi, helzt uppi á fjalli; skyldi legið í forsælu og snúið sér mót norðri. Sbr. Þjóðs. J. Árnas., I. b., bls. 435. — 7.—8. l. a. n., „Hornfiskur"; hornfiskar nefnast tvenns konar hvalir (hnúfubakar, *megaptera boops*, og hafreyðar eða steypireiðar, *balænoptera gigas* eða *Sibbaldi*). Jón Sigurðsson virðist hafa verið búinn að tala um þennan hornfisk, „með skjöldinn á hliðinni", við Jónas. Sbr. e. fr. Bréf P. M., bls. 7—8: „Hann (þ. e. Jónas) fór yfir Arnarfjörð; þar sá hann hval á firðin-

um, og heitir sá Vilpa, og hefir komið þar í nokkur ár og fært þeim kálf. Nú voru þeir nýbúnir að járna kálfinn Vilpu, og bjuggust þeir við hann mundi deyja 2 dögum eftir að Jónas kom þar". — Kálfurinn náðist ekki fyr en um haustið, sbr. bls. 63 og III. b., bls. 133. — Vilpa lifði lengi eftir þetta; „það var stór hafreyður", sem hafði fengið nafnið „af stórri, hvítri skellu, með djúpri dæld ofan í spikið á bakinu hægra megin, á milli horns og blástursholu, og sat sjór í dældinni, þegar hún dró sig fram og bakið kom upp úr sjó". Sbr. skýrslu Gísla Ásgeirssonar á Álftamýri í ritgerð drs. Bjarna Sæmundssonar í Andvara, LIV. árg., bls. 86—87. — „Skjöldurinn á hliðinni" hefir verið þessi „stóra, hvíta skella". — 4. l. a. n., „furutré", þ. e. í surtarbrandslagi. — 1. l. a. n.; „*þótti*" virðist vanta í ehr. — Bls. 45, 8. l., „hreppstjórann frá Fjörgulæk"; Jónas á, ef til vill, við Jón hreppstjóra Þórðarson í Kvígyndisfelli; hann var þá 65 ára. — 13. l., „Stefán minn"; sjá bréfið til Konráðs 8. Ág. 1837. Konráð hafði í gamanbréfi sínu 19. Maí spurt Jónas, hvort hann hefði ekki skrökvað þessu upp á Stefán. Hann hefir sennilega ekki kunnað mikið í þýzku. — 15. l., „Mad. Schäffer", sjá I. b., bls. 288—89, m. aths. — 19. l., „I til Takke tage maa!" Nótur eru krotaðar fyrir ofan orðin, því að þetta mun tekið úr söngleik.

*Bls. 45—46.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *16. Ág. 1840.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn, á kvartörk, og er utanáskriftin á 4. bls. Mánaðardag vantar, en af innihaldi bréfsins og áfangaskránni frá ferðinni, III. b., bls. 121—24, má sjá, að bréfið er skrifað 16. Ág. — Bls. 46, 3. l., „legstað" o. s. frv., sbr. III. b., bls. 190. — 15. l., „Þ. Helgason", séra Þorsteinn í Reykholti. Sbr. I. b., bls. 102—4, m. aths.; e. fr. III. b., bls. 176—7.

*Bls. 47.* — TIL BRYNJÓLFS PÉTURSSONAR OG KONRÁÐS GÍSLASONAR. *31. Ág. 1840.* — Ehr. í K. G. 31 a, skrifað á 1. bls. á örk í 4 bl. br.; á 4. bls. er utanáskrift til Br. P. — Konráð hefir skrifað þar: „Komið snemma í okt. 1840". — 3. l., „Hrauki", þ. e. hrauktjald, sem þeir Jap. Steenstrup og Jónas hafa legið í á áningarstöðum. — „Staður á Snæfjöllum" heitir nú (eins og áður fyr) Snæfjöll, enda er þar enginn „staður" lengur, hvorki prestssetur né kirkjustaður. — 6. l., „séra Benedikt" Þórðarson var prestur á Stað á Snæfjöllum þessi ár; — síðast í Selárdal. — Bjarni bóndi í Unaðsdal var Eiríksson. Hann var nú um sextugt, en prestur um fertugt. — 12. l., „Rekavík", smávík norðaustan-við Straumnes. — Góð lýsing af staðháttum og öðru þar er í Lesbók Morgunblaðsins, VI. árg., 8.—9. tbl. — Ketilríður í Görðum, Bjarnadóttir, var þar vinnukona, 18 ára að aldri. — 14. l., Jón Eyjólfsson var þá í Vigur, 26 ára

gamall. Jónas þekkti hann frá Höfn; Jón og hann voru þar samtíða veturinn 1838—39. Jón var dóttursonur séra Jóns Þorlákssonar á Bægisá (og móðurfaðir þeirra frænda, Rögnvaldar Ólafssonar, húsameistara, og Georgs Ólafssonar, bankastjóra). Hann var prestur að Stað í Aðalvík 1842—66 (eða raunar —67), dó 1869, sem prestur í Dýrafjarðarþingum. — Gísli var vinnumaður í Görðum; hann var Halldórsson; 10 árum eldri en Ketilríður. — Þau giftust um haustið. — 23. l., „loftanda“, sbr. bls. 44, 9.—10. l. a. n., m. aths.

*Bls. 47—49.* — TIL DEN HØJE STIFTSØVRIGHED I ISLAND. *12. Okt. 1840.* — Ehr. („Genpart“) í Þjóðskjalasafninu, I. B. J. Nr. 672, 40. Skrifað á 1.—2. bls. á heilörk. — Bls. 47, 1. l. a. n., „en tidligere Ansøgning“; Jón Jónsson (f. Johnsen), biskupsskrifari í Laugarnesi (síðar prófastur í Steinnesi) hafði árið áður, 30. Maí, sótt um Reykholt. Sjá um þá umsókn, ásamt fylgiskjölum, og sömuleiðis þessa, V., b., bls. XCIII—IV og CVI.

*Bls. 49—50.* — TIL BRYNJÓLFS PÉTURSSONAR. *14. Okt. 1840.* — Ehr. í K. G. 31 a, á stórri örk í 4 bl. br.; 3. bls. hálf og 4. öll auð. — 9. l. a. n. „En alþing!“ Konungsboðskapurinn um endurreisn alþingis var nú í hvers manns huga. Sjá um það mál t. a. m. rit Páls E. Ólasonar um Jón Sigurðsson, II. b., bls. 108—83. — Þeir skrifuðu allir, m. a., Jón Sigurðsson, séra Tómas Sæmundsson og Brynjólfur Pétursson; og Jónas kvað. Sbr. m. a. V. b., bls. CXVII og CLXXVII. — 6.—7. l. a. n., „Sunnanpósturinn“; sbr. I. b., bls. 165, m. aths. — 2. l. a. n., „kamrinum“, þ. e. Rentukammerið; Brynjólfur hafði nefnt það „leignakamarinn“ í bréfi sínu 19. Maí. — Bls. 50, 1. l., „námana“, þ. e. brennisteinsnámana í Þingeyjarsýslu, sem Jónas rannsakaði (og Sihythe átti að rannsaka) sumarið áður (1839). — 4. l., „Rapport“, skýrslu. — 6.—7. l., „Landmand“, sveitabónda (búhöld); Jón varð háyfirdómari. — 10. l., „kreditóra“, lánardrottna; sbr. bréf til Finns Magnússonar á bls. 54. — 11. l., „Prosowski“; hann var klæðskeri. — 12. l., „Reitzel“, — bóksali; hinir, ef til vill, einnig. — 16. l., „stípendíinu“, frá Fondet ad usus publicos; Jónas fékk það ekki aftur, enda var ekki sótt um það. — Aftur á móti fékk hann framvegis ferðastyrk frá Rentukammerinu.

*Bls. 50—52.* — TIL DET KGL. RENTEKAMMER. *14. Okt. 1840.* — Ehr. var í ríkisskjalasafninu í Höfn, Isl. J. 19, nr. 1713, en er nú í Þjóðskjalasafninu; sbr. uppkast í hrs. Bmf. í Lbs., nr. 13, fol. — Bls. 52, 10. l., „Foreløbigt Udkast“ o. s. frv., sbr. IV. b., bls. 60—66, m. aths.

*Bls. 53—54.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. *18. Okt. 1840.* — Ehr. í ríkisskjalasafninu í Höfn, á stórri kvartörk; 4. bls.

auð. — Bls. 53, 14. l. a. n., „lýsingarnar á brauðunum“, sbr. bls. 42, m. aths. — 8. l. a. n., „efna“, ehr. „enda“. — Bls. 54, 13. l., „Konungsúrskurðurinn af 20. Maí“, um endurreisn alþingis, sbr. bréfið til Brynj. Péturssonar 14. Okt., bls. 49, m. aths. — 16. l., „fjórðungskortið“, fyrsta, yfir Suðvesturland, sbr. Skýrslur og reikninga Bókmfél. 1841, bls. V, 1842, bls. VI, og 1844, bls. V; þá var það loks fullbúið, stungið á eirplötu, en kom þó ekki út fyr en um leið og hin fjórðungskortin.

*Bls. 54—56.* — TIL J. STEENSTRUP. *18. Okt. 1840.* — Ehr. var í eigu Joh. Steenstrups próf. Skrifað á stóra kvartörk; 4. bls. auð. — Bls. 56, 4. l., „s.“, þ. e. *salmo* (lax, silungur); bleikjan í Þingvallavatni er afbrigði af *s. alpinus* (fjallableikju), nefnist vatnableikja *(s. a. dorso nigro).* — Jónas heldur, að murtan sé annað afbrigði af *s. alpinus,* nefnilega *s. pallidus.* Bjarni Sæmundsson álítur að murtan í vatninu sé, ef til vill, ung vatnableikja, en gjámurtan segir hann sé afbrigði, er hann nefnir dvergbleikju (Fiskarnir, Rvík., 1926, bls. 369). — Urriðinn í Þingvallavatni er vatna-urriði, hinn eiginlegi og algengi urriði, en hér á landi eru auk vatna-urriðans tvö önnur urriða-afbrigði, nefnilega birtingur og branda (Fiskarnir, bls. 354—62). — 16. l., „Selskabsmøde“, í Bókmenntafélaginu í Rvík., sbr. bréfið til þess 9. Apríl, m. aths.; Jónas á við fundinn 6. Okt. — 31. l., „Botanik“; J. St. skrifar Jónasi í bréfi sínu 24. Maí n. á.: „Saasnart den botaniske Del i Museet er færdig, skal jeg begynde den islandske Botanik, som du har lovet at oversætte“. — J. St. gaf sér þó aldrei tíma til að gera þetta rit.

*Bls. 57—59.* — TIL PÁLS MELSTEDS SÝSLUMANNS. *10. Nov. 1840.* — Ehr. í hrs. Lbs. 147, fol., á kvartörk. — 8. l., „tímaritið“, sem séra Tómas o. fl. vildu reyna að koma á stofn. — 12. l., „Secretairinn“, Ólafur Stephensen í Viðey. — 21.—22. l., „Þorsteinn á Eyvindarstöðum“, Jónsson, var stúdent og stundaði kennslu, en fékkst einnig við bókaútgáfu; síðar varð hann kaupmaður í Reykjavík. Hann var frá Auðkúlu og því kallaður oft Kúld. Sbr. e. fr. bls. 124, m. aths., og V. b., bls. CXLV—VI. — Bls. 58, 2. l., „Grími“, Jónssyni, amtmanni, sem sat á stéttaþinginu í Hróarskeldu sem fulltrúi fyrir Ísland (ásamt Finni próf. Magnússyni). Um skattafrumvarp hans og það mál allt sjá Fréttir frá fulltrúaþinginu í Hróarskeldu 1840, sem Jón Sigurðsson o. fl. gáfu út, og rit Páls E. Ólasonar um Jón Sigurðsson, II. b., bls. 104 o. s. frv. — 3. l., „Kjøbenh.-p.“, Kjøbenhavnsposten. — 5. l., „næsta fundi“, embættismannanefndarinnar í Reykjavík. — 10. l., „í kommissíonina“, þ. e. sömu nefnd. — 11. l., „Rothe“, Andr. Bjørn (f. 1762); d. 22. Ág.; var lögfræðingur;

sjá um hann t. a. m. í Bricka, Dansk biograf. Lexikon, XIV., 352—3. — 12. l., „Engelstoft", Laurids, sagnfræðingur (f. 1774). Góður vinur íslenzkra stúdenta í Höfn og höfðu þeir (1830) heiðrað hann með því að gefa út eirstungumynd af honum. E. hafði verið í háskólastjórninni áður, 1817—32; dó 14. Marz 1851. Sjá Bricka, IV., 526—30. — 14. l., „skólann", latínuskólann hér. — 23. l., „sýslulýsingunni"; sýslulýsing Páls er nú í nr. 19, fol., í hrs. Bmf. í Lbs., „skrifuð í Marts-mánuði 1842". — 28. l., „cand. Kristjanson", Kristján, síðar amtmaður. — 30. l., „bænarskránni góðu"; þær voru eiginlega 4, og undirskriftir 142; voru þær um umbætur á verzlunarfarinu. — 31. l., „Knudtzon", Peter Christian; hann átti hér verzlanir þá og lengi síðan, og synir hans 2 eftir hann. Var hann einn af fulltrúum Hafnar á stéttaþinginu í Hróarskeldu og tók ómjúkt á bænarskránum; sbr. rit Páls E. Ólasonar um Jón Sigurðsson; er þar um þetta mál allt í II. b., bls. 86 o. s. frv.; um P. C. Knudtzon sjá e. fr. Sögu Reykjavíkur eftir Kl. Jónsson, I. b., bls. 165, og Sögu Hafnarfjarðar eftir Sig. Skúlason, bls. 286—289. — 32. l., „Séra Hannes", Stephensen á Hólmi. Um þetta mál sjá Bréf J. Sig., 1. safn, bls. 33, m. aths.

*Bls. 59—60.* — TIL DEN HØJE STIFTSØVRIGHED OVER ISLAND. *19. Jan. 1841.* — Eftir uppskrift í Þjóðskjalasafninu, I. B. J. No. 21 — 41. Bls. 59, 4. l. a. n., „tidligere indgivne Ansøgninger", sbr. umsóknina á bls. 47—49, m. aths. — Brauðið var veitt séra Jóni Gíslasyni í Hvammi, sem þar hafði verið prestur í 40 ár og prófastur í Dala-prófastsdæmi síðan 1816. Hann var nú orðinn hálf-áttræður og hafði tekið vígslu fyrir tæpri hálfri öld. Sbr. Prestatal Sv. Níelss., og bls. 68 hér.

*Bls. 60—66.* — TIL J. STEENSTRUP. *1. Marz 1841.* — Ehr. var í eigu Joh. Steenstrups próf. Skrifað á 2 heilarkir. — J. St. hefir skrifað á það „Besvaret"; — hann skrifaði Jónasi mjög ýtarlegt og langt bréf 22. s. m. og 12. n. m.; er það meðal annara bréfa hans til Jónasar í hrs. Bmf., nr. 13 fol., í Lbs. — Kvöldið, sem Jónas minnist á í upphafi bréfsins, var 28. Ág. 1840. — Bls. 61, 19.—20. l., „Kammerraad", Páll sýslum. Melsted í Hjálmholti, síðar amtmaður. — „Jomfru Melsted", ein af dætrum Páls, sbr. Sýslum.-æfir IV., 302. — 22. l., „Observatorierne", sbr. bréfið til J. St. 18. Okt. 1840. — Bls. 62, 14. l., „Hr. Thorlacius", Árni Ó., kaupmaður. — 22. l., „Eggert Olafsens Ugle", sbr. ferðabók E. Ól. og Bj. Pálss., bls. 705, og V. b., bls. 71 og 74; e. fr. III. b., bls. 125. — 31. l., „ossifragus", örn, sbr. III. b., bls. 132—33. — Bls. 63, 4.—5. l., „Præsten paa Rafnsøre", séra Sigurður Jónsson, faðir Jóns. Sbr. III. b., bls. 133, og

